Mr Stephan G. Stephansson
Vinsamlegast
Kr. St.

# VESTAN HAFS

## ÝMISLEG LJÓÐMÆLI

EFTIR

**KRISTINN STEFÁNSSON**



REYKJAVÍK
Á KOSTNAD HÖFUNDARINS
1900



# Ástagöngur.

Þegar gríma glóstirnd felur
grund og strauma marar-flóðs,
neistann fjörs og ástir elur
unaðsleiðsla hals og fljóðs;
enginn blær er enn þá vakinn,
ylvolgt hvílist hauðrið sveitt,
brjóstin hefir nóttin nakin,
nú er blóð í æðum heitt;
húmið seiðir,
svarta breiðir
sólarlausa arma' í kring;
sezt er njóla
á stjörnu-stóla,
stefnir ást á munar-þing.
Hér á samleið hold og andi,
hálsar vefjast arma-bandi.

Þá um aftna' er Amor kátur,
æska' að gleði-boði fer,
rennur út í rökrið hlátur,
rósilm ber í skauti sér;
þögul rödd með blóðsins boða
berst í gegn um hjartað fljótt,
hár sitt yfir hörundsroða
heitra kinna breiðir nótt:
en stundir líða
ljúfra tíða,
lít'r upp mánans hyrnan bleik;
það fer að daga
og þrjóta saga,
þátta-skifti verða' í leik.
Upp á makkann marar-strauma
morgunn leggur rauða tauma.

'93.

---

## Ástavísur.

I.

Hádags anda eygló skín
yfir land hug-drauma:
Freyjan banda bíður mín
blíð fyr handan strauma.

'82.

## II.

Að horfa' á loftsins lampana,
sem lýstu himininn,
og gulu tunglskins-glampana,
sem gyltu lokkinn þinn,
og trjánna krónur kvikandi
og kossarjóða vor,
við kul í blöðum blikandi
og blæsins þyt í stör, —

Það hafði' eg kært í húmgóðum
og hreinloftuðum skóg,
í runna-fylsnum rúmgóðum,
þars rökrið tjöldum sló.
Og komdu aftur út í lund;
þar enn þá máninn skín.
Og sé þér einhver sút í lund,
hann silfrar tárin þín.

Og við skulum sitja' á sama stað
þars sátum fyr á tíð;
það getur orðið gaman að
þar grafa upp um síð
þá liðnu tíð, hvern kífsins kross
með kvíðans svala vos,

og líka margan lífsins koss
og ljúfra vona bros.

'97.

---

III.

Nú hafa lengst in ljósu kvöld;
hve loftið er nú tært!
Við daggar-úðans spegil-spjöld
sig speglar tunglið skært,
og aftankyrðin er svo blíð
og ekkert hreyfir sig.
Æ, ástmey kær, hér einn ég bíð
og er að hugsa' um þig.

Og hér í þessum þögla reit,
í þessum kyrra skóg,
mig hrífur löngun logaheit,
svo ljúf, en harmsár þó.
Með hrausta, trausta hjartað þitt
og heilsuroða' á kinn
æ, kom þú, ástar-yndið mitt,
í opinn faðminn minn!

'83.

---

## Sofðu, kæra, sætt og rótt.

Sofðu, kæra, sætt og rótt,
sofðu vært uns dagur skín,
þótt steypiregn og niða-nótt
nái' að verða hvílan mín.

'88.

## Staka.

Þá sogast ég burtu af sælífsins strönd,
það sér eigi neinn, hvar ég var,
því hver sér þess merki við hafdjúpsins rönd
þó hrynji eitt sandkorn í mar?

'88

## Landgæði.

Hér andleg búsæld mælt er feiti fólk,
þá frelsis-kenning skellur hátt í gómi.
Þó undrar oss, hve mannelskunnar mjólk
er makalaust þunn og kristindómsins rjómi.

'92

## Gjaldþrota.

Sorgmætt drúpir, sér brögð engin,
salar-ráðhúsið;
auðlegð mannsins öll er gengin
út á náðhúsið.

'93

## Kyrkju-svefn.

Seinmæltur klerkur með sönglandi róm
í svæfandi mælginnar helgidóm
þar tvísté í draumi og dofa;
svefnhöfgi féll yfir söfnuðinn:
svefnlyf í ræðunni tók hann inn,
geispaði' og svo fór að sofa.

'98

## Gleymdu mér ei!

„Gleymdu-mér-ei" heitir fjóla fríð
í fagurbláum hjúpi,
„gleymdu mér ei" hljóma orðin blíð,
sem óma frá hjartans djúpi.

'88,

## Kvöld.

Fult er þetta þýða kvöld
þrá og harmi sárum.
Glampar tungl sem skygðum skjöld
skjóti haf úr bárum.

'88.

## Staka.

Kalt er loft og kulda-ský
kolgrátt hjálfan skekur,
tunglið eirrautt út úr því
annað hornið rekur.

'97.

## Ferðaljóð.

Af stað skal þá halda sem hraðast.
því hjólið á stálteinum gnýr
og vagninn fer æðandi áfram,
svo ymja við skógar og brýr.

Af stað er ég kominn. Mig stöðvar
ei stormur né dynjandi regn.
Til vesturs svo óðfluga áfram
um auðnir og skóga í gegn.

Með storminum þrumugnýr þungur
sér þrengir um náttmyrkrið svart;
hver eldingin aðra þá faðmar,
svo alt verður skínandi bjart.

En eld látið blossa og brenna
und blágufu ólgandi hyl,
og herðið ferð hjólanna, drengir,
til hennar því komast ég vil.

Og vefja míns hjarta-lífs hjartað
til hvíldar í faðmi mér rótt;
ég veit, að því eldingar ógna
og aldimm og svaðaleg nótt.

'83.

---

## Myndin.

Nú sé ég það andlit ekki hér,
sem áður á kvöldunum brosti við mér
í þessum gamla glugga.
Í sálu mér myndin þess sífelt þó er,

ég sé hana jafnan, hvert sem ég fer,
í skini jafnt og skugga.

'88.

---

## Einstœðings-huggun.

Þá yfir mig molduga ábreiðan legst
og alþekur rúmið mitt kalda,
ég lengur þá eigi' í lífinu hrekst,
en lúri um aldir alda.

'88.

---

## Söknuður.

Gleðisnauð mig grípur stund
gegn um nauða-húmið,
harmur rauða heggur und,
horfi' eg á auða rúmið!

'88.

---

## Úr ljóðum Heine's.

---

Við sólu bárur blika
sem beri gullinn hjúp.
Mér dauðum síðast sökkvið
í sævar blákalt djúp.

Því elskað hef ég æginn.
Hans úðasvala hvel
míns hjarta sviðann sefar,
oss samdi mæta-vel.

'95

---

## Logn.

(Eftir Heine.)

---

Sær er lygn og sjóinn allan
sólin gyllir spegilsléttan,
yfir ljóssins lýsigullið
leggur kjölur smaragð-raðir.

Við stýrið lóss í sælu svefna
sefur á grúfu vært og hrýtur,
en við mastrið sveinn einn situr,
seglið er hann við að gera.

Undir svita' og óhreinindum
eru kinnar fagurrjóðar;
titra varir, hrygðin hjartans
horfir úr fögrum, stórum augum.

Skipherrann hjá honum stendur,
heyrist bölf og formælingar.
„Þokka-piltur! þjófur ertu,
þú hefir stolið síldum frá mér."

Sær er lygn. Úr gyltum græði
gægist fiskkóð eitt og læðist,
vermir haus í vörmum geislum,
vaggar sér og dífar uggum.

En úr lofti' of miði márinn
miðar og á það svífur niður,
og með bráð, sem hremt hann hefir,
hverfur sjón í loftsins blámann.

'95.

---

## Eftir Ibsen.

Annaðhvort lífsins veizlu við
þú verða hlýtur að gesta sið,

eða mæna augum bara
inn um lýstan glugga' á sal,
úti þar við súld og sval,
ef vogarðu' ekki inn að fara.

'95.

---

## Til B. S.

Þá hold þitt límist hels við sæng
og harma-víma' er gengin,
á stirndrar grímu stjörnu-væng
þig stöðvar tími enginn.

'82.

---

## Leirflagaborgin.

Þau stássa sig strætin og torgin,
það stöðvar sig pollur við poll.
Hve ljómandi' er leirflagaborgin
og loftgóð og sjúklingum holl!

Og for-eðju dökkgráir dreglar
svo dæmalaust vel fara hér,

og árdagsins ásjónu speglar
Ið óhreina regnpolla-gler.

Það er svo sem borg, sem vér byggjum!
Og blessað sé alt hennar ráð
með grunnskektum hygginda hyggjum
og hallranga umbóta-dáð.

'95.

---

## Smjaðrarinn.

Á sérhverjum degi hann sætindi býður
og setur sig við hverja einustu gætt
svo tallipur, mjúkur og makalaust blíður
með málfærið alt saman hunangssætt.

'97.

---

## Nýjársgjøf.

Það blés nokkuð kalt yfir klaka og snjó
við komuna ársins ins nýja,
og sár-döprum glömpum á svell-gljána sló
frá sólinni' í drunganum skýja.

Og stormnepjan kembdi þá snjóskýin ein,
og snjóhára drýgði hún losið;
hún rann yfir skaflana, rak svo upp vein
við rúðugler hélað og frosið.

Mér var þá í hjarta' önnur vetrarkold tíð
með vægðarlaust frost sitt og dauðann,
og draumrósir háðu sitt dauðlega stríð
og duttu' oná hjarngaddinn auðan.

Með viðkvæmni horfði' eg á rósanna röð,
sem ræktað og geymt hafði' eg hjá mér,
og kvaddi svo öll þeirra bliknuðu blöð,
sem bárust í storminum frá mér.

„Og farið þið", sagði' eg. – Svo fer það
loks alt,
þá frostkuldinn nær blöðum rósa;
það er hér á jörðunni allvíða kalt
og ýmsu svo hætt við að frjósa.

En þegar ég hugdapur hugleiddi það
með hug fylltan skuggsælum myndum,
þá kom hún sem geisli við bláloftsins bað,
sem blikar á langfjærstu tindum.

Hún kom mér í sálu með söng og með þor
og svölun í þverrandi tári,

með sætleik og ilm og með sálarheims vor,
og sólgeisla-blómstur í hári.

Hún leiddi fram sól undan blájökla-brík,
er brendi sig inn í mig þreytan,
svo kysti' hún mig mjúkleg og miskunnar-rík
með munninn af kossunum heitan.

Þá færðist mér allmikill ylur í blóð
frá æskunnar brosandi dögum;
svo söng hún mér ástvarmt og ljómandi ljóð
úr lifandi hjartnanna slögum.

Í hug mínum bjart varð og breyting svo
snögg;
á burtu fór vetur með klaka,
og þangað kom rjóð og svo rök sem af dögg
hver rósin mín aftur til baka.

'96.

---

## Illærið.

Leiðinlegt þurmetið þykir við sjó
þeim sem að berja til stranda;
formenn og hásetar finna hér þó

fiskinn í kverkum sér standa;
illærið sveik þá um alt saman smérið,
sem ætlað var piltum í guðsorða-verið.
'96.

## Fangar.

Þeir eru þungum, þykkum voðum faldir
með þögn og myrkur fyrir höfðalag,
og bíða dóms í ærið margar aldir
með undra ró sem þennan dag í dag.

Og ei þeir kvíða yztum myrkra geimi
og ekkert truflar þeirra varðhalds-ró;
og enginn flaug frá helvíti né heimi
í hvíldarsæla fangahjartað smó.

En sannarlega syndguðu þeir allir —
og syndararnir dæmast, kent er oss.
Þeir trúðu, þessir, — bygðu helgar hallir
og helgra manna báru ok og kross.

Nú er þeim sjálfum sama um það bæði,
hvort syndin þeirra týnd er eða geymd;

þeir hafa alla hvíld og ró og næði
og hegningin er löngu, löngu gleymd.

Og eigi hastar. — Hinsta lúður-hljóminn
að heyri þeir, það getur dregist enn;
og hann er lengi, dómarinn, með dóminn,
sem dæmir alla þessa sakamenn.

'95.

## Þrumuskúr.

Í þrumu-guðsins sal er svall
og svakalegur glaumur ymur,
og eins og voldugt vatnafall
hans veigastraumur djúpur glymur,
þar skellihlægja skruggu-tröll,
svo skín í hvoft með rauðum logum;
þau gretta sig og yglast öll
með andardráttar þungum sogum.

Það sinnir enginn svefni' í nótt
í svörtum næturdrunga lundi,
og vöðvar stælast þrungnir þrótt
á þessum hrikalega fundi.

Í skruggu örmum skemtir sér
hver skýjaflóki margoft kystur –
og kossinn heitur ætíð er
hjá eldingunni, stormsins systur.

Við staupa-unnir sterkar legst
í storma jötun geysi-bræði;
og hrafnsvört brún í hnykla dregst
og harkið snýst í grimdar-æði;
og húmið fyllir heiftar-drun,
svo hauður titrar undir fæti,
það er sem fjölda fjalla hrun
þá falla' um jötna borð og sæti.

Þar efra gefst þeim gaman kalt
og glóðarauga' af þrumu-hnúa,
og mjöðin hellist út um alt
og o'n á skrælda jarðarbúa.
Já, þetta' er, svei mér, þéttings-„túr",
en þunt er vín í uppheims-skálum:
Ei orkar þessi þróttar-skúr
að þvo burt gauf úr mollu-sálum.

'94.

## Frostið.

Það klípur sárt, þess hvítna fingra-för
og fast í grund það svella iljum spyrnir,
með dauðans augu' og drauga-bros á vör
í dapri tunglsskins-glætu á það stirnir.

'94.

## Nýjárs-ósk.

Nýjárið færi þér nýjar gjafir lífs,
Nýjárssólin reki burt húmskugga kífs,
innan húsveggja þinna sé hamingju-ró,
í hjarta þínu mannelsku ríkidæmi nóg.

'92

## Shelley.

[Shelley (f. 1792, † 1822) var fríhyggjandi og ið ágætasta skáld. Byskupar og klerkavald kyrkjunnar ofsóttu hann á allar lundir fyrir „trúleysi“ hans; hann var enda sviftur forráðum yfir börnum sínum — alt fyrir sakir „vantrúar“ sinnar. Hann dvaldi úr því lengst af í Ítalíu og druknaði þar á seglbáti, sem hvolfdi undir honum, ásamt tveim mönnum, sem með honum vóru. Hálfum mánuði síðar rak lík hans af sjó; en öll sjórekin lík skyldi þá brenna eftir landslögum þar. Annaðist Byron lávarður, vinur hans, um líkbrensluna og lét síðan greftra ösku hans í grafreit mótmælenda í Rómi. — Landar hans, sem ofsóttu hann og fyrirlitu skáldskap hans meðan hann lifði, hafa nú minning hans í hávegum, og nú er hann talinn meðal frægustu skálda á enska tungu].

---

Hann undi við mararins fagurblátt flóð
og freyðandi bárur sem vini.
Hann silgdi um æginn og orti sín ljóð
um aftna í mánaljóss skini.

Og veltandi bárurnar veittu' honum lið —
þær vóru hans stallsystur löngum.
Það er eins og heyri menn öldunnar klið
og andvarans þyt í hans söngum.

Hann leið ekki kúgun að kreppa að sér:
úr köfnunar lofti og böndum
hann flýði sitt ættland og óvinaher,
og útlægur dó suðr í löndum.

Og hafaldan vafði um háls honum arm,
til hans því bar allgóðan þokka
hún dóttir hans Ægis með dúnmjúkan
barm
og drifhvíta brimfroðu-lokka.

Þá snarkaði blossi, og báran á sjó
við brimþvegin sandrifin dundi,
og særinn með eldinum útför hans bjó,
en útrænan kvað við og stundi.

Hans fagurt og hárbeitt var hugsana-stál —
og hver getur bent til hans stranda
á hvellari hörpu, á hvassara mál
og hærri og sviffrárri anda?

'97.

# Hríð.

I.

Dauðans lætur drunga varpa
djúp á raddaslög
klakastrengjuð hríðar-harpa,
heljar-bylja lög.

II.

Þoku-svækju súldið kalt
sudda-brækju myndar flóa;
það er að flækjast út um alt,
ár og læki, sund og skóga.

Titra' í gjósti gugnuð strá,
grænkan ófst í héluborðum,
Kári hóstar hryglu frá
hríðar-brjósti sínu á norðan.

Næðir svalt með herþings-hag
hríðin kalt um svæðið auða,
hylur alt ið hvíta lag,
hrímsins saltið, blómann rauða.

Lagðra ósa tárhreint traf
tjaldar ljósu' um úlf og refinn;
hverfa rósir hlýrum af,
hvítna' og frjósa mögru nefin.

Stormur flýtir fannaburð,
í freðnum þýtur hrofum tómum,
frostið ýtir inn með hurð
alveg hvítum hélugómum.

Kuldinn bugar kvalda dáð,
kreystir hugann grimdar-veður;
sérhvers dugur, sem á ráð,
í sínar smugur allar treður.

Fæstir kjósa' á klakans urð
kærleiks rós að fleygja' í bylinn:
menn við frjósa felda hurð
fyrir ljós og bjargar ylinn.

'96.

---

## Eldur í sinu.

Nú steðja fram eldar sem stóðhross um teig
í stanzlausum hópum með fælninnar geig,
og lokkar í blysfögsum lýsa.
Í tamningu bál-jóar bregða á leik
um bliknaða sinuna' og skrælnaða eik
og hnarreistir hneggja og frísa.

Og birnir sig hafa og refir á ról
og reka upp ámáttar skræki og gól
með hræðsluna titrandi' í taugum.
En Kári, hann situr í söðlinum vel
og svart stígur jóryk á himnanna hvel,
svo sólinni sortnar fyr' augum.

Og nótt er þá komin. — En Máni ei má
í mökkvanum jóreykjar handaskil sjá,
hann sér eigi', að sólin er hnigin.
En heyr þú mig, þarna í klemmunni karl!
Hví klifrarðu' ei þarna' upp á skýjanna stall?
— Hans Jakobs er jafn-hár sá stiginn.

Og komdu' út úr mökkvanum, karltetrið mitt,
með kínverska, gulbleika andlitið þitt,
því sólin í sæ er nú hnigin.

Hvort hræðist þú eldinn? Ið blossandi bál,
það brennir hér grasið, en einskis manns
sál,
og rauðmálar rólegu skýin.

Þótt sjáir þú ofan í eldsglóð og reyk,
þá er það ei Víti, nei, langt frá, en bleik
það haust-stráin eru, sem stikna,
og hingað og þangað grá skóganna skegg,
sem skefur in snarpheita, vindbrýnda egg
á hausti, þá bjarkirnar blikna.

Það segir, það vitra og vellærða fólk,
sem vizkunnar nærist á brjóstamjólk,
það gamla' og það fúna' eigi' að falla;
en vizkan þess eldist og verður að reyk,
því von bráðar kviknar í feyskinni eik,
og svo logar sinuna alla.

'96.

---

## Grafreits-vísur.

Hér þéttist bygðin dag frá degi
og drjúg er lestaferð um vegi;
hér hrukkar varla sléttan slétt.

Hér byggja lýðir lága sali:
hvers land er mælt í feta-tali
um þennan gráa grundar-blett.

Það feigðar-auðnar umgirt svæði
er eyðilegt í heljar-næði
með orma' og fúin lík í leir,
með dauða-mörk og moldar-hrúgur
og margar sundur troðnar þúfur,
sem enginn hirðir um neitt meir.

Og hér er ætíð hátta-tími —
því hér er dauðra nátta-tími,
og væran sofa virðar þeir.
Þó himingeimsins hvolfið rofni
og höf og jarðar-löndin klofni,
þeir vakna aldrei, aldrei meir.

Þeim rennur aldrei röðull fagur,
þeim rís ei nokkurs tíma dagur,
er lífgi þá með lífsins þrótt.
Þeir sofa fast um allar aldir,
hér eru þeirra dagar taldir,
þá geymir auð og eilíf nótt.

Þeim heldur eyðing ein og húmið
í örmum fast og grafar-rúmið
með sín in sterku sambands-gögn.

Þar hjúpar sjónir sárlöng blinda
og seigir fjötrar tungur binda
og eyrun fyllir eilíf þögn.

Þeir sjá ei páska-sólir dansa,
þeir sjá ei ljóssins geisla-kransa,
sem loga kring um lífsins brunn.
Við stóra safnið sannleiks-mynda
á sýning naktra beinagrinda
fer kuldaglott um grafar-munn.

'94

---

## Haustnótt.

Haustnótt köld á vængjum hríðar-vinda
voða-rúnum grefur frera-spjöld.
Hringar nakta, hlífðarlausa rinda
haustnótt köld.

Hátt þín rísa hríðarskýja tjöld,
hefir norðrið girt með kólgu-linda
hringinn kring um heljar-vetra völd.

Kalin lauf í kuldans straumi synda,
kremja vöðva lífsins hlekkja-fjöld,
húm þitt fult er hruni beina-grinda.
haustnótt köld!

'93

---

## Gullnáms-kaldan.

Hún berst eins og slúðrið frá manni til manns
og magnast í blóðinu, heila og taugum:
hún treður sér inn í hvern einasta skans
og undur og stórmerki ber þá að augum;
hún spanar upp allskonar ímynda fans
og ekur fram gullinu í skínandi haugum.
og vonirnar fleygjast um flúðir og hjalla
og fylla með gullinu kyrnur og dalla.

Alt glampar í augum hins gullsjúka manns
og ginnandi svipmyndir hugann hans lokka,
og ferðinni er heitið til hamingju-lands
og hugsað um nestið og skóplögg og sokka;
en það sem að eykur á óróleik hans,
það er það, hvað langt reynist þangað að brokka.

sem meðulin geymast við gullköldu-flogum
og glitra sem neistar af sindrandi logum.

Og þegar það fréttist, að þessi' eða hinn
eys þrotlausu gulli í makindum sínum,
þá hoppar þeim ylur á holdþunna kinn,
sem henna það lesa úr fregnblaða-línum:
og sóttin þeim elnar þá aftur um sinn,
í áttina þó að vér sáreygðir rýnum.
En verst er, úr garði ei verður nú riðið,
því veturinn rekur sinn slagbrand í hliðið.

En þegar að vorsins skín glóeyjar glóð
[illegible] gull þeirra heppnu og bein-grindur hinna,
[illegible] og blasnar á helkaldri slóð
[illegible] stundirnar ævinnar minna,
[illegible] ekki úvalið, ei ljós vermir lóð,
[illegible]-þráðinn úr gullinu spinna.
Til Klondyke, til Klondyke frá kyrkingu nauða,
[illegible] Klondyke skal halda' uppá líf og dauða.
'97

## Ferðbúinn.

Þegar dagur kemur með sitt kveld
og kulið vegs og dofnast geislar sólar
og nóttin breiðir yfir alt sinn feld,
svo alt er jafnskýrt fjöllin, dalir, hólar,

ég kveð þig ást, sem kærleiks pálmann ber
og kossa heitan roðann tveggja vara;
við eldinn lífsins ornað hef ég mér,
og er svo reiðubúinn til að fara

og leggja upp á heljar heiðar-veg
og hengiflug og dauðans gljúfra brautir,
þars blóðið frýs við frostin geigvænleg
og fennir yfir kaldar lífsins þrautir.

En verða kann, þó verði' eg úti þar
sem veðrin dauðans geisa mig í kring um,
að vorið hlýja, vorið eilífðar,
mig vefji' og skreyti lífsins blómsturhring-
um.

'96

## Sjódropi.

[Kvæði þetta er kveðið þá er höf. var fært glas fult af sjó vestan úr Kyrrahafi].

Nú skoða eg hér, ægi-breiða haf,
einn agnar-part af þér svo volduglegu,
einn saltan dropa djúpi þínu af,
sem draup mér hingað langa óravegu.

Og þessi dropi' er dropi' úr æðum þér,
er dundi' og svall í þínum ólgu-lindum,
er hann við strönd í brimi bylti sér
og brautst þar fram í þínum ógna-myndum.

Hann lá í þinni þróttarstóru taug,
í þínum barka' og afarsterku lungum,
og hjá þér hann þitt bylgju-brjóstið saug
og bar þitt nafn á allra storma tungum.

Og þessi dropi' er dropi' af þinni sál,
sem djúp er þinnar miklu, stóru veru;
hann skein í þér við sjóðheitt sólar-bál,
er sunnu vangar rjóðir að þér snéru.

Nú hef ég fangað fagra soninn þinn;
ei fanga-bönd þó gerði' eg á hann leggja.

Þeir létu' 'ann hlaupa' í glersal glæstan inn,
ég geymi' 'ann innan fjögra krystalls-veggja.

Og af því ég er alt of fjarri þér,
en á þó drauma bernsku-sálar minnar,
með glöðum hug til hans þá sný ég mér,
því hann er partur veldisdýrðar þinnar.

'96

---

## Vorvísur.

Nú heilsar birta' og blíða
og blessuð vorsins sól
með veldis-faðminn víða,
sem verður geimnum skjól.
Á hennar ástar-örmum,
á alls lífs brjóstum vörmum
menn gleyma höfgum hörmum
og hjartans norðurpól.

Í himinblænum hreinum
um hlið og vog og nes,
og uppi' á grænum greinum
ég guðspjall vorsins les

af röðulfingrum ritað
og roðageislum litað;
það fær mér hugmóð hitað
þars haustsins kylja blés.

Oft grær á vörmu vori
margt voða-sár, er hjóst
í þungu þrauta-spori,
hvar þreytan áfram dróst.
Og ást og fjörið fleyga
er frjálst að taka' og eiga
þá löngu, ljúfu teiga
við ljóssins móður-brjóst.

En stutt er sælu-sumar;
hver sólrík stund er naum.
Þó eiga allir gumar
sér einhvern sælu-draum.
Þá heið er hjartans sunna
og heitust brosin munna,
er ljúft að lifa' og unna
í lífsins útfalls-straum.

'93.

## Syðra.

Nóg frjálsræði er þar, og frítt er um völl
og fallegt mér þykir þar syðra;
og enn þótt þar vanti með öllu þau fjöll
þars anda sinn bezt er að viðra,
þá tjóðrar ei viljann neitt vandræða-band,
og vonina gerir það fleyga,
sem þar væri' ið dýrlega dásemdar-land,
sem draumarnir sálnanna eiga.

Þar beygir ei kúgun; þar frjálslegt er fólk,
á fótskör það einskis mans krýpur;
og heilbrigt er land þess, og hunang og mjólk
af hávögsnu stráunum drýpur.
Og glatt er þar tíðum í búandans bæ
og brosandi kinnar á drósum
við akranna breiðan og blaktandi sæ
og blækysta ilminn af rósum.

Og hver maður slær þar í framsóknar för
og forlaga himnarnir blána;
sér leikur við erfiðið lífskrafta fjör
í landinu' ins stjörnótta fána.

Og starfs-minning sigurljóð syngur við skóg,
þann sumarsins hátignar-stólinn;
alt faðmar og blessar í friði og ró
með frelsinu himinsins sólin.

'95.

## Kveldgöngur.

Við rökurfall ég reika þrátt,
er ró og kyrð og vorsins nátt
mig vefur ástar-armi;
mér finst ég að eins hálfur hér,
mitt hjarta veit nú hvað það er,
sem brennur mér í barmi.

Þá grúfir húm of hljóðri storð,
ég heyri' úr fjarlægð vonglöð orð,
mér heyrist sem hún segi:
„Þann himin, sem að heiður er,
ég hefi beðið að hvísla' að þér:
'þér gleymi' eg um aldur eigi'!“

Svo geng ég einn — og alt er hljótt;
þú yndisblíða Maí-nótt,

seg henni' í sætum draumi,
ég hennar sé, mitt hjartablóð
sé hennar, bros mín, tár og ljóð
í sorg og gleði-glaumi!

'83

---

## Grikkland og Krít.

(Eftir Algernon Charles Swinburne).

---

Styrjöld, smán og svika-sori
  sorta fyllir hverja þjóð.
Von og ótti' í austri líta
  egghvöss sverð og bruna-glóð;
Grikkland eitt sér ljós og leitar
  ljóss, sem brann af frægðar-móð.

Hellas, andans eigin móðir,
  æðst á stríðs og friðar tíð,
ljóssins fold, sem hugann hvetur,
  herðir kjark og þrek við stríð,
enn sér frelsis blysin brenna,
  benda' í austur grískum lýð.

Grikkland, þar sem hæstri hafði
hreysti' og manndáð stöðu náð,
blindum heim nú ber að augum
blossa-leiftrin yfir gráð
Grikklands frelsis, sem er svarið
sjálfum guði' og mannsins dáð.

Vindar þeir er sigur-söngva
sungu fyrr í grískri voð,
Asíu þá flotinn flýði,
fagna aftur hverri gnoð,
sem und frelsis sönnum merkjum
siglir að Krít í hjörva-roð.

Þar bjó gumi guði-borinn,
gömul frá því herma ljóð;
þar mun andans gríska göfgi
guðleg, sem ei skortir móð,
aftur kveikja á þeim vita,
er áður lýsti snildarþjóð.

'97.

---

# Minni.

## I.

### Ísland.

Þú hafi gyrta hnjúka-land,
þú Heklu' og Geysis móðir
með eldhrauns flóð og ísaband
og ösku' og jötun-hlóðir
og kolsvört hella geysi-gin
í gljúfra feikna-rönnum,
sem aldrei hafa átt að vin
nema' ögn af mosa' og hvönnum —

Þú jökulfold, úr jökulkyrð
af éljafingrum klipin,
þú ert vor móðir, ströng og stirð
og stór-hreinleg á svipinn.
Og þú ljær stormum þrumu-róm
og þungann marar-kvæðum,
og þú átt söngsins sólar-blóm
og sól á Braga-hæðum.

Nú skín þig sumar-sólin á
og sveipar fjöllin blossum,
og Ægir vill sig vin þinn tjá
með votum, söltum kossum;

og dalir hjúpast blíðum blæ,
þær bernsku vorrar slóðir,
og hýrt er yfir bónda-bæ,
sem blessar nafn þitt, móðir.

Hve fegin varstu, feðra storð,
þá féllu járn af höndum!
En hvað skal hálfmælt hjálpar-orð?
Þitt hjarta' er enn í böndum.
Hvert mæðutár á móðurkinn
og myrkvi' á svipnum bjarta
og harmasköp og skaði þinn —
það sker oss inn að hjarta.

Ef hygg'nn ert og hugsanber,
þinn horfna dýrgrip færðu,
og rendú augum yfir ver
til Ameríku' og lærðu.
Við vitum nú, þú veitst oss af,
þó við ei árlangt finnumst;
og við hér fyrir handan haf
þín hjartanlega minnumst.

**2. Agúst 1894.**

---

## II.

## Ísland.

[Flutt að Hallson, North Dakota, 2. Ágúst 1897].

Þú bjartra nátta ljósa land,
vér látum hugann renna
til þín af hafsins hranna grand,
sem höfða' og gjögur spenna.
Hvert fjall þitt, það er samt við sig
með sólskins-roðnum brekkum.
Til merkis um, vér munum þig,
þér minnis-veigar drekkum.

Vort hjartaþel er hlýtt til þín,
vér hötum kúgun alla:
og þegar sumar-sól þín skín
í sali þinna fjalla,
þér viljum færa frelsis-vor,
svo fari' ið innra' að þána,
og senda yf'r um þrek og þor
frá þessum stjörnu-fána.

Vér biðjum þess að öld af öld
þín aldna bygging vari.
Og statt þú fast, þótt stund sé köld
í straums og vinda fari,

með hvamma, dali, hraun og sand
og heljar-bjorg í logum,
vort gamla tignar-tinda land
með trolla' og álfa sögum!

Vor endurminning hrein og heit
frá heiðum bernsku-dögum,
hún vegs og á sér vermireit
í vorum ættlands-sögum.
Og þó að dynji hríð og hregg
og hugans kæli lendin,
vér myndum hjalpa' að hvessa egg
og hoggva' í sundur böndin!

---

## III.

### ÍSLAND.

[Flutt í Winnipeg, 2. Ágúst 1897].

Oss finst það ætíð einstaklega ljúft,
vor ástkær móðir, hér að minnast þín:
og ekki þarf að grafa geysi-djúpt
unz gull í jörðu minninganna skín.

Og það er svona: Þó vér flyttum fjær
þér, fósturjörð vor, vestur langt um haf,
að skærast hér hver sálar-strengur slær,
sem snortinn verður þinni minning af.

Og það var ekki' í illu skyni gert,
til ámælis ei nokkrum manni hér,
að burt við fórum, heldur hverjum bert,
að hart var þá í búinu hjá þér.

Það eitt er víst, þó alt sé sniðið smátt,
vér erum, hverju svo sem verður beitt,
í sjón og raun ei síðri' á nokkurn hátt
en systkinin, sem aldrei fara neitt.

Þú skilur, sér það, veitst það eins og við,
sem viljum alt gott falli þér í skaut,
ef gætum, myndum við þér veita lið
og velta þyngstum steini' af þinni braut.

Og þennan dag vér höfum helgað þér,
og honum, sem að mest og bezt þér vann,
því saga þín hún ber þess merki ber
að betur enginn reyndist þér en hann.

Vort kæra land, þér kveðju sendum vér;
vér knýta gjarnan viljum land við land
með bróðurhugans brú frá landi hér
um bárudjúp og þinna stranda sand.

---

## IV.

### Canada.

Canada, hafvíða, heimkunna veldi,
holt er þér baðið í nútímans laug;
glóir af framsóknar umbrota-eldi
upptendrað lífsmagn í sérhverri taug.
Ekkert á skylt við þig tálið og tjónið,
traust er þitt lifandi ráðsnildar-orð;
undrandi stara' á þig örninn[1] og ljónið,[2]
alblómguð, sólföðmuð vestræna storð!

Æskunnar fjör og þinn armur er sterkur,
eirðarlaus starfshreyfing vermir þitt blóð;
syngjandi ómar um iðgrænar merkur
eimvéla-flugið þín bezt kveðnu ljóð.

---

1) Bandaríkin.
2) Bretland ið mikla.

Margt vilt þú útlendum einstæðing kenna
ei er þín kenslubók sjálfbirgings-hól,
en hún er rituð með árstíða penna,
andinn og lífið er himinsins sól.

Saga þín skrifast ei sverðseggjum rauðum,
sæmd þín ei styðst við neinn morðvopna-
-fans,
faðminn þú breiðir mót fátæks manns
nauðum,
frá þér ei hrindirðu lífsvonum hans.
Brúaðu geigvæna, geysandi strauma,
greiddu þess braut, sem að afturför dróst,
sveifla burt húmmyndum hjartveikra
drauma,
heilnæma sjálfsprófun legg oss í brjóst.
2. Ágúst '93.

---

V.

MINNI KVENNA.

---

Þú kona, sjá! þín kærleikssól
er klakann burt að þíða,
svo auðan blett, sem áður kól,
þín anganblómstur prýða,

og þinna vanga rjóða rós
er rök af gleðitárum.
Nú skín þitt ástar undra-ljós
sem eldblik lífs á bárum.

Að græða böli bólgin sár,
þú blíða líknarvera,
og þerra heimsins harma-tár,
þú hefir nóg að gera.
Þú krýnir geislum kalda braut,
þín kærleiksverk það sanna:
þú léttir hverja þunga þraut
á þyrnivegum manna.

Þín höndin mjúka hjúkrun ljær
og hýrgar vangann bleika,
er hljóðan vörð þú haldið fær
við höfðalag ins veika.
Og yfir kaldan harma-hyl
þú hleypur léttum fótum,
og flytur löngun, ljós og yl
að lífsins hjartarótum.

2. Agúst '90.

---

## Til Nýjárssólarinnar.

Þú milda Nýjárs-morgunsól!
þú mesta ársins hjálp og skjól,
þú veitst um alt, sem vantar yl:
þú vekur alt, sem finnur til.

Þú sendir glóbjart geislaskin
á gröf, sem hylur látinn vin,
og upp um klakans kalda háls
þú kærleiks-arma leggur frjáls.

Og hrestu' og vermdu hvern þann rann,
sem himninum og ljósi ann;
og legðu varma lófann þinn
á litla skýlið — kofann minn.

'95.

## Ástin þá andvaka lá.

(Eftir Algernon Charles Swinburne).

Ástin þá andvaka lá
illsárum þyrni-beði' á
rauðeyg með tár-bleytta brá,
bliknaðar varirnar smá.

Óttinn og harmur og háð
höfðu þar varðstöðvum náð
unz nótt var úr mannheimi máð
og morgunninn skein yfir láð.

Gleðin kom árgeislum á,
Ást kysti, þar sem hún lá.
Vofugrár vafraði þá
vörðurinn burt henni frá,

Björt urðu augun og blá,
blómroði varir kom á.
Náttlangt oss hrygð kann að hrjá,
en huggandi' er morgunsins brá.

'98.

---

## Þeim fanst það slík unun.

Þeim fanst það slík unun að finnast og sjást
og framtíðar-vonirnar stóru
í sólbjörtum geislum af sælu og ást
í sálunum ginnandi vóru.

Svo gekk það nú alt eins og gengur það til;
þau giftust. En vonirnar stóru
um framtíðar lánið og lukkunnar spil
með ljómandi drauminum fóru.

Og hamingjan miðluð í molum þeim var,
og möguleglaikarnir smáir,
og ástin varð köld eins og kulnandi skar
og kossarnir stuttir og fáir.

Þau sáu ið komandi barnanna böl
og beizkjuna festandi rætur,
og sambúðin var þeirra sárasta kvöl;
en sjúkdómur réð á því bætur.

Og treginn var setstur á tómleikans bekk,
þar táruðust vinirnir hljóðir,
en rólegur ekkill frá gröfinni gekk,
þars grafinn var sonur og móðir.

Þá reyndust þær vinur í volæði' og hrygð
á vegunum mótlætis hálu
hún Varmenska, Sérgæzka' og taugarlaus
Trygð
í túskildings smámuna-sálu.

'98.

---

## Stöllurnar.

Eg sá flækings ábætur
úti' í vetrar-hreggjum.
Sargaði' í kálfa og knjábætur
klökugur faldur eggjum.

Hlassa-stæða stöllurnar
snoppum þrýstu' að skjáum.
Vöxtinn húsgangs-Höllurnar
hafa' af sínum áum.

Skýrt ég leit í skásjónum
skekking réttra laga;
úlfúð var á ásjónum
asna mynd að draga.

Hraknings-rauna hrollurinn
hékk á andlits-geplum,
skautaði kauna-kollurinn
klepruðum flóka-sneplum.

Nöguð sálar sauðgirðing
sýndi skamtinn klipinn;
smitaði andleg auvirðing
út um kindar-svipinn!

'96.

## Um vetrarnótt.

Móka' í lofti þunnleit þoku-ský,
þykir vænt um næturloftið svala;
lognið, sem þau liggja grafkyr í,
leiðir rökkrið fram með kyrðar dvala.

Stjarnan þarna' og þetta mána-flak —
þessa nótt á vesturhimni finnast,
yfir gult og gárótt skýja-þak
glampar þeirra kaldir saman tvinnast.

Líða þeir í logagyltum hjúp
létt sem eimur hljóðs frá klökkum nótum
út um frost-kalt dauðaþagnar djúp,
detta svo á snjóinn mér að fótum.

Birtir, hýrnar fanna-flæmið hvítt,
fegurð vetrar blikar mig í kring um,
mundasvala hjarnið hörundsfrítt
höndur skreytir frostsins demants-hringum.

Einhvern þungan eyðileik ég finn
einn á þessum snjóaflæmis-vegi;
napurt andar kuldaloft á kinn;
kólnar, þegar hallar lífsins degi.

'90.

## Kjarkleysi.

Haustnepja, kveðjandi farfugla flug,
fjúkandi laufblað í stormum,
þrælsótti, leifar af marg-drepnum dug,
dálítil hungurfró ormum,
og loftleysi eitrað í langnætttis-vist
er líf hverrar þjóðar, sem kjark hefir mist.
'98.

---

## Staka.

Hvar er drottni færður að fórn
fjárins afli nógur?
Þar sem landsins lögleg stjórn
er lýðsins vasaþjófur.
'98.

---

# Vor-ský.

Þau hópuðust saman og höfðu sér fund
um, hvað þau til bragðs skyldu taka,
hvort ættu þau heldur að grænklæða grund
eða gyrða hana í snjólín og klaka.

Og sum vildu ausa' úr sér ískulda' og snjó
og amast við nýgræðing mjóum;
en öðrum fanst veturinn vera hér nóg
og vellirnir lengi' undir snjóum.

Og þrefað var lengi og þjarkað um stund
og þunglega suðaði' í viði.
Þau sendu' eftir Eygló á úthafsins sund
með alfylktu geislanna liði.

Og til þeirra gekk hún svo broshýr og blíð,
og bjartleitu geislarnir rjóðu
með vinhlýja heilsan frá vordaga-tíð
í vændum, sem lofaði góðu.

Og hjartnæmt hún talaði' in hlýlega sól —
það hljóðnaði' í skýjanna sölum,
og andblærinn læddist um lautir og hól
og leið eftir grundunum fölum.

Og öll feldu skýin þá ágreining sinn
og iðrunin fanst þeim sig brenna
og hnuggin þau sátu með hönd undir kinn
og horfðu á tárin sín renna.

Og dimt fanst þeim lífið í grátþrungnum geim
og græðslan ei nein fyrir sárin;
en geislarnir komu og klöppuðu þeim,
af kinnunum struku þeir tárin.

Hvert tár varð þeim spegill um leiti og laut,
þeir litu' í þá glaðir og hlógu.
Þeir juku sitt veldi og víkkuðu braut
og vernd yfir nýgræðing slógu.

'97.

---

## Söngvísa.

Lag: The Red White and Blue.

Við hafdjúpsins stormbylja slögin
um stirðlyndan rokvinda dag
ég kann bezt við langæfðu lögin,
þars lífið og dauðinn syngja brag.

Storm og straum, straum og storm, þann
er stríðir,
styrkir taug manns-þroskans aflrauna til,
þá dáð, sem ei auðsveipin drottnunum hlýðir,
met ég dýrlegast hljóðfæra-spil.
Það hvetjandi, hefjandi spilið
er huga míns uppáhalds-spil:
þá dáð, sem að alls eigi drottnunum hlýðir,
met ég dýrlegast hljóðfæra-spil.
'96.

---

## Leikslok.

Já, fyr eða seinna við förum í burt,
og fyr eða seinna vort blóð er kjurt
og bliknuð og köld þá er bráin;
og allmargir stríða við ævilangt böl
og eignast ei nóg til að borga þá fjöl,
sem umkringir allslausan náinn.

Menn þeytast um heimsgeimsins staðlaus-
an stað,
og stefnan og takmarkið, — hvað er nú það?
Það er fokstrá í blásandi byljum!

Fólk hvirflast um lífs-sæ við hvítskafla-rok,
við hamrana' og brotsjóa — gæfunnar lok,
og velkist í hringiðu-hyljum.

Og margur er viltur í mannlífsins hríð
og margur sig þreytir við ævilangt stríð
mót erfiðum andvindi' og kulda.
Hann reynir að átta sig. Ráðgátu leið
er rökrinu vafin og færðin ei greið
að fjársjóðnum happanna hulda.

Og dimmviðrið sortnar, það sést ekki hót,
og svo er þá vegurinn flóar og grjót,
þars ekkert er afdrep né skúti,
er skjól veiti höfði ins hníganda manns
á harðinda torsóttu vegunum hans,
svo hann verður, hann verður úti.

Því viti sést enginn, sem vísi á leið,
og voðaleg sundrungar auðnin er breið
og erfið með æfinnar þunga.
In vinfáa, ljósdapra lífsþreytu-braut,
sem liggur í gegn um manns böl og manns þraut,
hún endar í öræfa-drunga.

'86.

## Stökur.

Refsinornin galdra gól,
gekk að friðar-ránum.
Aldrei Þorsteinn eignast skjól
undir linditrjánum.

En svo er margra manna spá
mótuð sannleik hreinum,
að friðskjól hafi fuglinn sá
fundið und stærri greinum.

Þegar hretin hraða sér
hvöss og útsynningur,
skýli betra ætið er
eik en skollafingur.

98

## Harður vetur.

Báglega tekst með búskapinn —
bjarglaust! þrotið heyið!
„Grána“ krokir kviðdregin,
kraftlaust bleika greyið.

Er á slíku engin mynd,
afl og dáð það letur;
krossa hýmir horuð grind,
höm í veðrið setur.

Við líftóruna lafir hver,
sem leitar skjóls hjá frúnni,
meðan dropi einhver er
eftir í stjórnar-kúnni.

Mjaltakonur þarf ei þá,
því mega' allir trúa,
því þörfum merkjum þekkjast á
þeir sem kunna' að sjúga.

'96

---

## Með járnbrautinni.

(Eftir W. Carlton.)

Lauslega þýtt.

Í blindbyl og um niða-nótt
vér náðum tygjast leiftur-fljótt,
und hófum glumdi, hnegg við kvað
og hesturinn okkar rauk á stað.

Og ljósið út frá okkur skein,
og öryggispípan rak upp vein,
og bjart og heitt frá geysi-glóð
vort gneistaflug við himin stóð.

Og svo til baka heyrðist hátt
hvar hjól vor gnúðu stálið blátt,
en örskjót fregn oss undan óð
um okkar reið á járna-slóð.

Og undir hátt í trjánum tók.
Hver táplaus hrísla kollinn skók
og hrími klædd mjög hnykti við,
er heyrði' úr fjarlægð okkar klið.

Og ofsaveður yfir rauk,
um okkar vanga mjöllin fauk;
en móti hríð var hesti rent.
Vér hjuggum vindinn rétt í tvent.

Og hengibrýr og hamra-rið
sem heljar-þruma drundu við.
Svo söng in hrími hvíta lóð
vor heimsmenningar sigurljóð.

Þá dagur rann í austur-átt
og yfir færðist loftið grátt,
vér áðum. Þá var þrotin leið
og þessi jötunlega reið.

'94

---

## Ekki heima.

Húsið verður hlýkusnautt,
hljóðir skuggar sveima,
og þar er alt sem það sé dautt
þegar hún er ei heima.

## Heima.

Birtu slær um hugans heim,
hýrgast dagar naprir,
þegar komin hún er heim,
hverfa skuggar daprir.

'98.

---

## Trú-játning.

Á hegnandi harðstjóra þjóða
í hjarta mér trú ég ei ber;
en ég trúi' á guð í því góða,
guð þann í mér og í þér.

'98.

---

## Heimsigling.

Á bláann æginn að ýta skeið,
og austur sæinn að leggja leið,
frá ströndum lágum með laufgan baðm,
á öldum háum að Íslands faðm,

það myndi yndi og unun mér
í svölum vindi um saltan ver,
og hrista lúann af lífi' og sál
og myglu' og fúann í marar-ál,

og finna vindinn um vanga sinn
frá hamra-tindunum klappa kinn,
og rokið seltu sér renna' um vör
af ránar-veltu á hraðri för,

og hlusta' á niðinn, sem æ er eins,
og aldrei sniðinn að tízku neins,
er stormsins fingur á strauma-kaf
þá slá og syngur við bylgjótt haf; —

og sjá þá máttinn í marar-arm
og æðasláttinn í unnar-barm,
og loft og æginn það eina' í kring
með húm og daginn á heimsigling.

Það er svo fjörugt það ferðalag
og frjálst og örugt um nótt og dag,
er kaldur úðinn um kinnung þvær
og knarar-súðina kvikan slær.

Það væri gaman, minn guð veit það,
að leggja saman og brjóta blað
við hversdags þreytandi þungbært staut
og skeiða þveitandi' um þara-braut,

og segja skilið við ryk og rusl
og róstuspilið með ærsl og busl,
og storms og straumanna stefna' í fang
við öldnu draumanna öldugang.

'96.

---

## Til konu minnar.

(Á nýjársdag '93).

---

Sjá, ljósið skín um lönd og sæinn;
nú ljómar himingeimur blár
sem eftir grát við gleðihaginn
sjálf gleðin hrein með léttar brár.
Þér gefi drottinn góðan daginn
og gleðilegt ið nýja ár.

Þótt hömróttur sé harma-skaginn,
þars hrynur kífsins boðinn flár,
ef lýstur geisla' á lífsins sæinn,
er leiðin trygg, þótt knör sé smár.
Þér gefi drottinn góðan daginn
og gleðilegt ið nýja ár.

## Í skógi.

Létt er iðrun hér að gera hreina,
hjarta svala skærir tára-brunnar
undir hvelfing mána-gyltra greina
í guðs-kyrkju við altari náttúrunnar.

'88.

---

## Ráðlegging.

Vertú ekki' að væta hvarm,
veiklun tár þér búa;
vektu' upp þrek í þínum arm,
þína syndu knúa.

Röngu máli taktu tak,
tveimur höndum vegðu;
inn um brjóst og út um bak
andans sverði legðu.

'98.

---

# Norðurárdalur.

Hann hefir ei aflögu hlýinda-skjól
í helkulda næðingi svalur
og hreint ekki' of mikið að segja af sól
inn sóllitli Norðurárdalur.

Og þar hefir norðlenzki veturinn völd
— sá vægir ei dalbygða lýðum —
og löng er þar skammdegis-kreppan og köld
í kafinu' í dynjandi hríðum.

Og þar er það löngum að sér ekki sól
— á sólina háfjöllin skyggja —
og fannirnar kyngjast um hlíðar og hól
og hjörn fram á vordaga liggja.

En samt var mér vel við þann sólsnauða dal,
því sól skín þar loks yfir tinda.
Nú ann ég þeim tjarlæga fannhallar-sal
með fjallanna aflramma vinda.

Því þar hef ég lifað þá ljúfustu stund,
sem leit ég á feðranna grundu,
og dansað við ylríkan eyglóar-fund
með ástvörmu hjarta og mundu.

Í hvert sinn er vor leysir harðinda-hnút,
sem herti' að í skammdegi svörtu,
úr hrófunum börn koma hoppandi út
til að horfa í sólina björtu.

Og ylurinn leitar þá leið, sem er skemst,
til að lífga og verma og hugga,
og svo ofan hlíðarnar sólskinið kemst
og seinast í bæ — inn um glugga.

Og þá lengist sólbraut og þá leysa flóð
og þá hlýnar brekkum á vöngum
og dalurinn vefst inn í vorblíðu-ljóð
með vindanna' og straumanna söngum.

'96.

---

## Sólbráð.

Nú er komið vinlegt vor.
Klakinn grætur,
köld tár lætur
síga niðr í sólar-spor.

Bjart er láð og loftið blátt.
Golu andi
yfir landið
svífur nú frá suðurátt.

Geislar skreyta skýjadrög,
þægan niðar
þýð vindkliðar
harpan sumar-söngva lög.

Kemur fram úr fylsnum alt,
alt, sem fenti,
alt, sem lenti
í vetrarfangið voða-kalt.

Skafl, um nótt er hríðin hlóð,
heljarþungur
holur, sprungur
fær á sig af sólar-glóð.

Skaflbúanum skýlið þver —
andar Kári
á úfna hárið;
klakavatn í augum er.

Fellur ljós um bleika brá,
frosna vanga
verma langar:
léttist snjórinn líki á.

Lækkar svella-brúnin blá:
þynnir klakann
þykkan, rakan,
bólar holta-börðum á.

Fölleit mjög og mögur fold
er af hríðum
hörkustríðum;
sleikt að beini' er hennar hold.

Sinugrá og svellklædd rót
klaka-barminn
býður varma,
kuldastrá og kalinn hnjót.

Kyssa yl í æð og taug
sunnu varir,
svella skarir
bráðna' og verða landsins laug.

Flyt oss, vorsól, þrek og þor,
ljós og þiðu,
lyndisblíðu,
sólbráð, gleði, sálar-vor.

---

## Blómið.

Þú gægist út um gluggann minn
á gaddinn vetrar auða
og býður sólar-birtu inn,
og blaða-knappa rauða
þú sýnir henni hvern og einn
og hágræn laufa-kögur;
og fegra blóm ei finnur neinn,
þó fari ei af þér sögur.

Og þú af rjóðum rósum ber,
sem raupa' af fríðleik minni,
og margur einn, sem fram hjá fer,
að fegurð dáist þinni.
Þinn laufa-krans við rjáfur rís,
sem reisug björk þú mænir;
og glóey þegar gyllir ís,
þú geislann að þér hænir.

Hann leggur til þín leiðir fljótt,
hann langar á þig að skína
og kossi ljúfum læðir hljótt
á lukta knappa þína;
þeir opnast svo og öll þín sál
úr ungum knapp sér skýtur,
og fegurð, blíða og blómstra mál
úr blaði hverju þýtur.

Þú minnir á alt milt og blítt,
sem mannsins brjóstið hrærir;
á ljósið ástar ljúft og hlýtt,
sem lífið endurnærir;
á bernskuskraut og bjarta von
með blóm í lyndi ungu
og gleðiróminn, sólskins son,
frá sálarinnar tungu.

'97.

## Griðar-upprof.

Stormur hrukkar snjóa-traf,
sléttan vafin mjallar fangi
er að sjá sem svanhvítt haf
af sólu lýst í bylgjugangi.
'96.

---

## Til S. J. Jóhannessonar.

(Við burtför hans til Íslands '94).

Nú fýsir. þig til fornra stranda
með frjálsan huga, gladdan anda
við frelsi, líf og ljós og sól.
Þig langar heim í faðminn fjalla,
að fóstru brjósti þér að halla
við hjartað, þinnar bernsku ból.

Fyrst hugur þinn á hafsins öldu
fær horft á móti norðri köldu
og stefnir Íslands stranda til,
þá færðu kveðju fagnaðs-stundar
til fjallauðugrar mjallar-grundar,
vorn hjartans-kveðju hjartans-yl.

Þó hér sé frelsi, fjör og menning
og framsóknin sé lífsins kenning
og landið gullið hjúpi hrós,
þá er hér líka deyfð og drungi
og dauðleg eymd og sorga-þungi
og varðhaldsglæta' og villuljós.



Og hér í margra alda anda
vors átrúnaðar hofin standa,
vér fáum enn þá fáu breytt.
Með bænahaldi gullið glæsta
hér gerir bjá oss innlégg stærsta,
þars guð og mammon eru eitt.

Það kostar þrek og táp í taugum
að taka vanans blindu' af augum,
og létta byrðar, leysa bönd.
En austur gegn um olduglauminn
og yfir breiða kalda strauminn
vér réttum varma viljans hönd.



Þig leiðir enginn umboðsdraumur
og engrar stjórnar gullinn taumur,
og þú ert maður frí og frjáls.
Af engum manni ertú keyptur,
ei okrarans í móti steyptur,
þér fellur ekkert ok um háls.

Far heill, kom heill í hóp vorn aftur.
Ei hafsins djúp né veðra-kraftur
má þínu fleyi gera grand.
Þú fer ei til að tjóðra, villa,
né teyma, reka, falsráð gylla
þú flytur enga lygi' um land.

Nú skal í vorum vörmu sálum
á vináttunnar sumarmálum
vorn hlátur bala kæti kvik:
og hér við veiga sterka strauma,
er streyma' um myndir fornra drauma,
skal þvo burt nábleikt hugar-hik.

Þó vegi skyggi skuggi tíðar
og skuggi hylji gjörvalt síðar,
þá nálgast kaldra nátta mál,
er nóttin löng og svefninn sætur
ef seggir engir rísa' á fætur,
sem drukkið hafa dauðans skál.

En vertu sæll. Á sævi breiðum
nú syngur byr á austurleiðum
í hafsins stóra storma-sál.

Þér biðjum hlífi helgur kraftur
unz hingað kemur til vor aftur.
Þín hér er drukkin heilla-skál.

---

## Djákninn Myrká.

Tungl óð í skýjum og tunglsglömpum brá
á titrandi vatnsrensli' á svellum
og hlákunótt dimmleit í dalnum var á;
drundi við niður í fellum:
Hörgá með hlunkum og smellum,
braut af sér hlekkina' í hamförum þá,
hrammana' á jakana setti' hún,
sogstrauma-brjóstinu svartleita frá
svalköldu skyrtunni fletti' hún.

Þeyst er fram ísana' á grá-fegstum fák,
fýkur úr hófunum krapið;
í ísinn þar fram undan er eins og rák —
opið er feigðstrauma gapið
með lífsins og lofnar tapið,
það ljómandi stjörnuhrapið.

Og vök er þar svo löng og líka breið
sem lykkist Fofnir þar um næturskeið
í stórum bugðum slefjuðum og köldum,
er straumur yptir froðubryddum öldum,
sem eins og tungur slettast til og sleikja,
og slást um skarir,
og væta varir,
sem straumsins þyngsli meira og meira
veikja.

Í fáksins augum er felmtur með trylling:
Fært er ei yfir um — áin á löndum,
veltur fram jakarek, brestur í böndum
brotnandi ísa með voða' og hrylling.
Skamt er til Myrkár, skemra til dauða;
á skörunum sönghásar vatnsraddir nauða.

Ein er þó brú yfir beljandi straum.
Beygir við Fagsi, og út á þá stígur;
kippist við jórinn, kipt er í taum,
kiknar við hestsþungann ísspöngin naum,
brestur og rifnar og byltist í flaum,
hestur með manni í hringiðu sígur.

---

Vefja þá ísaköld armalög,
um þá þau vilja sig reyra,
árinnar sterklegu æðaslög
ólga og sjóða því meira.

Fagsi þekkir inn freyðandi straum,
fyrri þeir átt hafa' í brösum,
velkist á sundinu' í varglegum flaum,
vatninu hvæsir úr nösum.

Skella' á þeim jakarnir; skera þá börð —
á skörina fægðu, sem bítur,
hann Fagsi sendist með sundtökin hörð,
úr söðlinum djákninn þá hrýtur.

---

Hálfblátt er andlitið, helglottið kalt,
úr hnakkanum blæðir í strauminn,
og smám saman bólar á höfuð, sem halt
hnykkist til blóðugt, á svíranum valt,
inn undir skör ber það árvatnið svalt —
aflvana hönd misti tauminn.
Úti' er með ástvina-drauminn!
Nú blundar hún Guðrún á Bægisá,
til boðsins hún hugði með gleði að ná,
og dreymir nú um jólin og jólaglauminn.

Í svefninum verður þeim vært og rótt,
sem vita' ei um neitt til að særa;
og draumurinn ber hana hægt og hljótt
að hjartanu vinarins kæra.

Og hér er hún varin af hraustum arm
og horfinn er kvíðinn og óttinn;
nú hvílir hún draum-sæl við djankans
barm. —
Hve dýrleg er heilaga nóttin!

Og margt fær hver nóttin af sælu lífs séð,
er syrgjandi dagurinn grætur;
og draumurinn minnir á margt, sem er
skeð —
og mjúk eru faðmlög um nætur.

En draumurinn hverfur með sætleikann sinn,
er sálin úr dáleiðslu raknar;
og grá-skíman leggur um glugg-rúður inn —
hún Guðrún með deginum vaknar.

---

Og aðfangadagsins þá komið er kveld
og kyrt er og blíðasta veður;
hið innra er hýrlegt við hlóðir og eld,
því hangikjöts-skamturinn gleður.

Sparíklædd Guðrún og albúin er,
eftir hún djáknanum vonandi bíður;
óþreyjan, löngunin, ástin sem ber,
ólgar í blóðinu' og logaheit sýður.

Og veizlunnar hugsar hún hlakkandi til,
hoppandi leika sér brosin um vanga,
huguriun vermist af vinhlýjum yl,
vonanna blómknappar sætlega anga.

Í hlaðið er riðið; það heyra hún fær;
heitt stígur blóðið til roðnandi kinna,
hjartað í brjóstinu hraðara slær,
hún snýr til dyranna gestinn að finna.

Á hlaðinu þekkir hún hest bæði' og mann,
og hratt er til burtfarar undið,
því enginn sín loforð eins efnir og hann,
sem ástinni hefur þau bundið.

Og mörgum slíkt hressandi huglétti bjó
á hlaupinu skammlífra tíða;
en fremur mun dapurt og drungalegt þó
að draugs baki' um hánótt að ríða.

Og hátt o'n af skörinni henti sér jór
og hrein þá við jakabrots-haugur.
Um Guðrúnu hrollur að hársrótum fór,
því hún sá, að reiddi sig draugur.



Að heimboði dauðans á rösklegri reið
slær rökursins hrolli að geði,
og dvelja fær margur um dapurlegt skeið
að draugs baki Ánægju og Gleði.

Og aldrei mun samveran sælurík fást
— ég séð hefi víða þess táknin —
með lifandi ást og með andvana ást,
þó aftur hún gangi sem djákninn.

Hver ástþunguð löngun er lífsveru gjöf,
með litina hreyfingar rauðu;
og fús var ei Guðrún að fara' 'on í gröf,
því fúlt er og kalt hjá þeim dauðu.

'97.

---

## Til Jóns Ólafssonar

**á 25 ára ritstjórnarafmæli hans, 9. Jan. 1898.**

Vér komum hér saman að sýna þess vott,
að sjónina enn þá vér höfum
og sjáandi sjáum, hvað gert er oss gott,
þó gullnum það letrist ei stöfum;
og vinhlýjar þakkir þér viljum vér tjá,
er verkin til þjóðheilla lítum vér á.

Þú lagðir fram viljann og viturleg ráð,
svo viðreisn þín ættjörðin fengi.
Og þú hefir unnið með þreki og dáð
að þjóð-sómans hagsældar-gengi.
Og út fyrir stjórn-kitru stíuna' í kring
þú stækkaðir þjóðlífsins sjóndeildarhring.

Og hér er að vega hvað illkynja er,
og ofríki hrinda af stóli.
Þú vilt ei, að lygin hér leynt geti sér
í lífsgeislans helgasta skjóli.
Á ófrelsis hlekkjárnin heggur þú enn,
þau hlekkjárn, er sálfjötra kúgaða menn.

Haf þökk fyrir starfið þitt heima og hér,
og hreinskilnu, orðsterku ljóðin
svo frjáls eins og hrönnin, sem hamrana ber,
svo hugdjörf sem víkinga þjóðin.
Og verði þér ókunn og ókomin tíð
til auðnu' og sigurs við daganna stríð.

---

# Til Björns Halldórsonar
(frá Ulfsstöðum).
Fyrir skál hans í samsæti.

---

Ei samir að ég fari að syngja við þig
um sorgir og barlóm og vol,
en heldur í kvæði ég klingi við þig
og kveði um mannskap og þol
og hríðar og hamhleypu veður,
þá hafið með stormmagni treður
og gengur í hamrana' á hol.

Því kært er þér alt, sem er karlmannlegt
— þú kyntir þér forntíðar lag; —
og alt, sem er snöðugt og snjallmannlegt,
það snertir þig þann dag í dag
sem alt slíkt þig ungan snart forðum,
því andinn í fastheldnum skorðum
sig gleður við hreystinnar hag.

Og fróður í fornkvæðastökum
þú finnur þar snillinnar gull;
og hraustur að hornflæða-vökum,
þó hár verði hvítt eins og ull,
þú situr og sér fram í tímann,
þú sér, hvernig fara mun glíman,
og tæmir þitt freyðandi full.

Ég óska þér gengis, minn góðvinur,
og gleðinni seglfylli' af byr.
Þinn andi' hann er lífseigur ljóðvinur,
og ljósið um morgunsins dyr
það fleygir burt frostköldum skuggum;
hann feykir burt þokunnar muggum,
sem áður var kolgrá og kyr.

Og hlustaðu' á storminn í strengjunum —
þeir stældust við mannrauna eld.
Þú telst enn með dugandi drengjunum,
þó dragist nú brátt yfir kveld.
Svo óskum vér alls þér ins bezta;
og aldrei lát hönd á þér festa,
til að slíta' af þér húðfat og feld.

'98

## Vestur yfir Klettafjöll.

(Söngur íslenzks farþega).

Ég ætla' að fara ofurlítinn spöl,
mér er að leiðast heimasetan stranga.
En burt' að heiman hef ég stutta dvöl,
og hvað sem í skerst, fer ég ekki' að ganga.

Ég held þann brúna' eg bera láti mig:
þó borist geti hugur fljótar eimi,
þá hef eg gaman svona' á sléttum stig
að steðja fram með gný og reiðar-hreimi.

Og alt er til. Ei nesti' og nýja skó
er nokkur þörf að hafa', en farartálmi.
Ég fer óbúinn, stíg á stála-jó
við stormbyls-hvin af eimsins ferða-sálmi.
Ég rýk á stað, það hvín og hvæsir hátt
í hestsins nösum, reykir kolli stinga
í tárhreint loft um tunglskins bleika natt,
og togast sundur, mynda ótal hringa.

Og þúsund milna leið er ekki löng,
því léttur klárinn minn er upp á fótinn;
og skeifna-glamur syngur nóttu söng,
í sudda-mekki brunar fararskjótinn.
Þeim reiðar-gandi gefst ei áning nein:
hann geysist fram um nætur jafnt sem daga,
en lífs síns þroska, fremd og frægðargrein
úr fægðu stáli taugar landsins draga.

Og gaman væri', að sæist svona braut
og svona jór á feðraeyju minni;
þá yrðu fjöllin smærri þjóðar-þraut
og þungi' á lúnum vegfaranda minni.

Það einnig væri' ei ólíklegt, að þá
í anda þjóðar flyttist nokkur vaka.
Og gaman væri að heyra hraun og gjá
hvert hjart-slag eims með dunum endur-
taka.

Þá flyttist kannske til þín, móðir mín,
það manndóms þor, er áttir þú til forna;
og lífsins roði kæmi' í kinnar þín,
þá kraftar nýir tækju þér að orna.
Þá sæist betur alt það sem þú átt;
af orku' og dáð vér sjálfsagt meira fynd-
um,
og nautnin meiri yrði' á allan hátt
þeim anda', er kysi' að drekka' af þínum
lindum.

Því þú átt enn þá, jökla-foldin fríð,
í fólki þínu trúna, von og þolið.
Þú átt til minja margt frá æsku-tíð,
þó mörgu hafi frá þér verið stolið.
Jöfn Vesturheimi' að auðlegð ert ei þú;
þú átt og færra', en hann, af hvers kyns
bófum;
og aldrei muntu' á hrokans hengibrú
til heiðurs dansa stórauðugum þjófum.

En sleppum því — vér þjótum áfram beint
unz þrýtur leiðin vesturhafs á ströndum.
Hver getur sagt, að gangi okkur seint?
Nú gnæfa fjöll með hvítum jökulböndum
á aðra hönd; á hina gljúfur gín
og grópuð brautin er í hamra-tána.
Þar virðist stundum bæði sál og sýn,
að sendist alt að lokum o'ní gjána.

En þarna' í bergið Framför fótstíg tróð.
Hve ferleg sporin! — Nokkuð þungt var stigið.
Og þarna, sem hún þrekleg áfram vóð,
í þennan háls er skarð eitt niður sigið.
Um farveg hennar ferðin gengur vel;
og ferðljóst jafnan er á hennar vegi,
þó rökrið hylji ragna þrungið hvel
og röðullinn í báru faðmi deyi.

Vér vitum það, að Framför rétt ný-fædd
var furðu skjót að læra' að henda sporið.
Og stelpan sú er stáli' og járni klædd
og styðst við eilíft hugvitið og þorið;
og allur heimur hennar leiksvið er
og hana tignar allrar jarðar veldi.
Í hendi sér hún heimsins þroska ber,
og hún var skírð í vatni, lofti' og eldi.

Nú fram undan oss kolsvart gapir gin,
þar gýgur býr sig heila lest að svelgja.
Nei, þey — Ég heyri hátt í skolti hvin —
Ég hugsa kannske flagðið kunni' að velgja
við þessum bita, þó hann sé ei stór;
og það skal jagsla', að vinna á þeim brúna.
Hann kvíðir lítt, því marga för hann fór
um flagða-rann, og liðugt eins og núna.

Og út um göngin svört og sudda-vot
og svælufull og köld af gusti' og raka,
í gegn um hárra heljarkletta brot
ég horfi' í ljós, en myrkur er til baka.
Nú hverfa' að baki fönnug fjalla-horn,
en fram undan sjást hafsins straumar bláu.
Hún skyrpti oss, in skögultenta norn,
sem skautar sér með þoku-skýi gráu.

Og Columbia[1] heit af himinsól
og hafsins seltu-blænum kæld á stundum
nú rennur upp með fögur bygða-ból,
sem blasa við í grænum skógar-lundum.
Um hýr og skrautleg málms og merkur
lönd
þeir mildu vindar leggja upp frá sjónum,

1) British Columbia.

og strjúka landið ávalt hýrri hönd,
en hnefa steyta móti frosti' og snjónum.

Og morgunsólin heið og heit og rjóð
hún hefir vakið sína dyggu þjóna,
sem ljóma slá á lõðurs kátu jóð,
sem leika' um sand með mjallahvíta skóna.
Þau hlæja' og syngja; söng þann kendi'
eg fyr
og saltan koss á varir stundum þáði.
Nú siglir hugur unn í óska-byr
að einu stöku, köldu, fjarru láði.

Og gott á hugur fargjalds-, farrúms-laus,
sem fer og dvelur hvar sem honum sýnist,
en bágt sá andi', er viltur veg sér kaus
og verður úti' á glapstigum og týnist.
Hve sætt, þá draumar hrífa huga minn,
svo hinu stríða' er létt um stund að
gleyma!
En ætíð það ég á mér samt þó finn,
á endanum er bezt að vera heima.

'98

# Endurminninga-brot.

## I.

### Ísland.

Alt það sem mér yndi bjó,
á sér djúpar rætur:
Íslands blessuð bygða-ró,
bjartar sólskins-nætur.

Man ég feðra-foldar svip,
fossa' og voga bláa,
eyjar, firði' og fjölmörg skip,
fiskibáta smáa.

Sjái' eg aldrei svipinn þinn,
sé hér vestr í heimi
meðan el ég aldur minn,
aldrei þér ég gleymi.

Hverfur þú ei huga mér,
hvert sem liggja slóðir;
þar þitt málað útlit er
og andlitsdrættir, móðir,

Bæja-raðir, engi, ár,
urðir, fen og sanda,
höfða, tanga, heiðarflár,
hella, malir stranda, —

Hvamma, dali, hýrleg tún,
hlíð með tærum lindum,
svipstórt fjall með svarta brún,
suddaþoku' á tindum, —

Gil og hamra, hnjúka-röð,
hvítra jökla blæinn,
húsa-klasa, kauptúns-stöð,
kalda, salta æginn —

Þetta' eg man. Ég man þig, sær,
man ég kvika strauma.
Inn sig vafði aldan tær
í æsku minnar drauma.

Sær, þú gatst mér stundir stytt,
styrkt og glætt minn anda.
Ljóð ég oft og oft las þitt,
öldufall, við sanda.

Nótt mér sýndi nes og tind
í nætur-sólu glansa;
saman heyrði' eg sjó og vind
syngja, hlæja, dansa.

Sat ég oft við sævar-hyl
síð í hafdjúps-kælu,
fanst mér þá ég finna til
ullrar lífsins sælu.

Þungan brimsins þrumu-óð
þrunginn hélt ég vonum.
Hann fanst mér sem hvatar-ljóð,
herðing landsins sonum.

Eitt á köldum ævistig,
ættarlandið hvíta,
styrki guð og gæfan þig
glaðan dag að líta.

Hylji þinna barna brek
birta nýrra tíða,
svo að fólkið fái þrek
fyrir þig að stríða.

Standi það sem styður hag,
styrkist sona-bandið,
blessist hvert þitt bygðarlag,
blessað gamla landið!

'97

---

## II.

### Stúlkan.

Ég gekk mig eitt kveld út með sólroðnum sæ,
er svæft hafði' á brjósti sér fleyin,
sem móktu þar grafkyr og biðu' eftir blæ
í blóðrauðu sólsetri þvegin.

Ég sá hana' í brekkunni' um sólseturs-mund,
og sæinn ei hrukkaði blærinn,
og heiðin sig spegladi' um hásumarstund
í höfninni', og skipin og bærinn.

Hún sat þar og horfði' út á hafsdjúpsins straum
og hjaðnandi kveldsólarloga
sem sædis í útfjarða einverudraum
við öldurnar dimmblárra voga.

Mig grunaði' hún byggi' yfir hrelling í hug
— af hverju það kom, var mér gáta, —
og harm þeim, er sverfur úr sálunni dug,
og sæti þar ein til að gráta.

Þá dundu við eyra mér dansnótna slög
með dillandi' og fjöruga valsa;
Ég heyrði', er ég nær kom, að lék hún
þau lög,
sem lifnuðu' af kátínu' og galsa.

Ég setti mig hjá henni' á sólvermdan stað
að sjá, hvað til umræðu bæri,
og stamaði út úr mér einhverju' um það,
hve yndislegt kveld þetta væri.

Í norðrinu bungaði blikandi sær
og bláfjalla hvíttoppa-röðin.
Ég sleit upp úr sverðinum sóleyjar tvær
og sat við að reyta' af þeim blöðin.

Og fagurt var kveldið um flóðdjúpsins geim
og forsæla' und brekkum og hjöllum.
En stúlkan var fríðust í fegurðarheim
af fegurðar dætrunum öllum.

Og mörgum leitst sveinum a meyjuna þá;
vér mæta-vel allir það skiljum;
á skipinu yzta við útnesja-tá
stóð eign hennar kærasti' á þiljum.

Hann siglt hafði með hana' um hrannanna
hyl;
hún hló þá og spilaði valsa,
er hvítfreyddar öldurnar hoppuðu til
og hófust í norðlægum kalsa.

Á gæðingi annars um eggslétta grund
hún oftlega' á skeiðspretti þeysti;
sá þriðji' átti gullið og gjöfula lund,
á gjafirnar sínar hann treysti

Og ástin in ljúflega' um lífdaga mar
þeim lýsti, sem stjarna' yfir honum;
en alt, sem þeir hreptu á endanum, var
slík ógrynni' af táldregnum vonum.

Ég man, hvað mér þótti hún fjörug og
frjáls
og falleg og spaugsöm, en — prettin,
og vel fann ég ylinn ins ókyrra báls
frá augum, sem litu' á mig glettin.

Oft smáfiskar smokra sér hættunum hjá
í hlénu af árbakka-veggnum,
og stórriðuð laxanet stöðva ei þá,
þeir stroka sig möskvana gegn um.

Og mér, sem nú hvorki' átti fák eða fley
né fé það, sem nokkurs var metið,
stóð hreint enginn beygur af blómlegri
mey —
ég barasta smaug út um netið.

Þá dróst yfir nóttin með draumunum ljúf
með dvalann í blóði og taugum,
mig dreymdi um hárfléttur, húfu og skúf
og hvikula leiftrið í augum.

---

## Eftirmæli.

### I.

### Þorsteinn Skúlason.

Með andlitið hýrlegt og hreint og bjart
þú hlóst, því þú sást ekki myrkrið svart,
sem deyðir ljósið og lífið.

Af kæti' og fjöri þú fullur varst,
sem fjöður á straumi um lífið þú barst,
ei þyngdi þig þungbæra kífið.

Svo glaðan og ánægðan oft sá ég þig,
að það undraði tíðum stórlega mig
hve barnshjartað óskert þú áttir.
Og það var þín andlega sumar-sól,
er sál þína vermdi, svo ekkert kól
af því sem þú missa ei mattir.

En svo kom fregnin: frostnótt köld
var fallin á blóm þín og hinsta kvöld,
sem helkalda húmskugga lagði
svo langa og dimma á lífs þíns braut,
að lífsveru þinnar dagsbirtan þraut
á einu augabragði.

Og þú varst ungur og þrekstór að sjá,
og þú barst hraustleikans merki þér á
og andlega atgervis blæinn;
til prests þig langaði' að læra því,
og lentir svo kyrkjunnar náttmyrkrum í;
en nú sérðu sannleikans daginn!

Og nú ertu lagstur á lága döf,
á líkkistu botninn, — niðri' í gröf,
þú hvílist um aldur og ævi.

Þú þektir ei mótbyrinn, stritið og stríð,
þú stóðst aldrei úti' í lífsins hríð
við áföll á æfinnar sævi.

Alt lífið á göngu til grafar er;
á grafar-þakinu upp yfir þér
á vori mun grasið gróa.
Svo breiðir á hausti sitt ljósa lín
á legstað þinn náttúran, móðir þín,
þá frystir og fer að snjóa.

'91.

---

## II.

### Björg Jónsdóttir.

---

Á björkum er frosthrím og fallinn er snjár
og fönnin hún hylur þitt leiði,
en himinsins geimur er bjartur og blár
með blessaða sólina' í heiði;
hún skín jafnt á flakandi sálar-sár
og svellþaktar greinar á meiði.

Nú ertu' oss horfin, þú hugljúfa snót!
skjótt huldi þig nóttin in kalda;
en nú geislar, sálhreini svanni, þér mót

sú sól yfir nátthafi alda,
sem leiðir fram blómin af ljósvermdri rót,
er lífi til eilífðar halda.

Þín móðir við daganna deyjandi óm
nú döggvar með tárunum sínum
ið hljóðlega, ískalda auðnunnar tóm
á ævinnar stöðvunum þínum,
þars sorg-þögnin birti sinn bjargþunga dóm
í brennandi þéttsettum línum.

Sú sorg er svo kyrleg og kveljandi sár
með kuldann og skuggana langa;
hún dregur svo margbrotin minningartár
um mædda og fölnaða vanga.
Það lýir að bera mörg lífsþrauta-ár
þá lífsins er örðugust ganga.

En aldrei þér grandar nú gaddur og vos
né gustur af tímanna hjóli;
þó veturinn kreppi' að með kólgunnar gos
á kulnuðu jarðlífsins bóli,
þá býr þú með æskunnar ylríka bros
í eilífu, friðsælu skjóli.

Þu léttir oft sár-snauðum bölið í barm
og blæðandi hlúðir að sárum, -
og ráðviltum aumingjum réttir þú arm
á raunanna stormvöktu bárum,
og því ert þú kvödd með svo hjartnæmum harm
og hugvörmum skilnaðar-tárum.

'93

---

III.

GUÐRÚN JAKOBSDÓTTIR.

---

Kveðið 16. Janúar, er var giftingardagur innar látnu.

---

Í drunga út við sjónhring þá kvaddi kveldið sól
og kuldann haustsins lagði um nakið foldar-ból,
í tungls- og sólar-lausa og svarta nætur-arma
féll sorgarmædda lífið með tárin sinna harma

Ég man, hvað dimma nóttin var hörmu-
leg og hljóð —
þá heimilið þitt kvaddir, og sólin kvaddi
lóð,
við hjartað kælu-storma in hrundu skóg-
lauf blöktu,
í himinblárri fjárlægð í kulgeim stjörnur
vöktu.

Nú ert þú okkur horfin, en merkis-minning
þín
á marga horfna daga slær björtum geislum
sín;
hvert vinar-orð þitt geymist og vermir
kulda-hjúpinn,
hvert vinar-bros þitt stafar á minninganna
djúpin.

En hér hjá vinum þínum þú skilur eftir
skarð.
Að skammdegisins rökri inn glaði dagur
varð,
er þú, sem gleðiljósum þinn lýstir allan
bæinn,
varst lífs af himni gengin í kalda dauðans
æginn.

Og það er einmitt af því að þennan vetr-
ardag
varst þú hjá okkur jafnan með fjöri' og
gleðibrag,
að þín ég geri minnast í litlu kveðju-
ljóði,
sem líður út í geiminn á djúpu þagnar-
flóði.

Þú veitst nú sjálfsagt ekki, hvaða' dagur
er í dag,
ef dagatalið gleymist við lífsins sólar-
lag.
Það gerir heldur ekkert, þó gleymist hverful
tíðin,
þó glatist liðnir dagar og háðu lífsins
stríðin.

Þér lífið var, sem öðrum, ei alt af vor og
sól
né innilegust blíða og hjarta þínu skjól.
Þín frjálsmannlega hyggjan og skarpa skör-
ungs-lundin
við skamt þann varð að una, sem gaf þér
tómleg stundin.

Þú mæltir aldrei æðru né hræddist harma-
skðp,
þú horfðir beint á lífið með öll þess stjörnu-
hrðp.
Þær hverfa, gjafir lífsins, sem hjörtun
veikja' og særa,
því hinsta gjöfin tímans er hvíldin langa'
og væra.

Og beizk var raunastundin, sem þrengdi
fast að þér.
Af þeirri tíð er myndin í huga dregin mér.
Þú, sjálf á leið til grafar, þinn soninn lát-
inn kystir,
og satst með tár í augum, er burt frá þér
hann mistir.

Nú hvílist þú hjá honum, og sofðu sætt
og rótt!
Þín sakna vinir þínir. Ég býð þér góða nótt,
og þakka fyrir velgerð og vinsamlega kynn-
ing. —
Við vonum hér og trúum og geymum þína
minning.
'95.

## IV.

### Sigurlaug Stefánsdóttir.

---

Alt breytist. — Þitt stundaglas útrunnið er,
og aflið úr þrælkunarhaldi.
Mín andaða systir, ég sé þig ei hér;
nú sveipar þig helskugginn kaldi.

Hann byrjaði árdegis bylurinn kífs
að blása þér napurt um vanga,
og kalt var þér tíðum í kuldunum lífs
um klakann og hjarnið að ganga.

Þinn hrakninga-ferill var sorglega sár,
— nú segir ei meira frá honum —
og samferða urðu þín ár og þín tár,
og útblætt er lífdaga vonum.

Og nú ertu friðnum þeim fastheldna gift,
í fullkomnu skjóli hjá dauðum,
og nú ertu ótryggu athvarfi svift
og alls konar þungbærum nauðum.

Þá náttskuggar draga' upp sín nauðungar-
-flögg,
og nótt hefir grátið á leiði,
þú glóir í sólvermdri, drjúpandi dögg
mót dýrleg vormorguns heiði.

Þú lætur á blævang í himnanna haf,
í heildina stóru þú rennur,
og roðandi geislunum röðulsins af
í regnbogans skrauti þú brennur.

Þú lifir um eilífð í ljósanna hað
svo langt burt frá draummyndum heimsins,
í lífsgeislahreyfing, í hitamagns að,
í hjartanu eilífa geimsins.

'94.

---

V.

VIÐ LEIÐI SIGRÍÐAR PALSDÓTTUR.

Hvort er þessi varði, sem verndar hennar gröf,
steinrunnin andvörp af tómleikans töf?

Einveru-stundanna mæðu-tár og mein
minning um framliðna höggva' í kaldan stein.

En aldrei ið sárasta hjartans hulda kvein
höggur nokkur meitill inn í kaldan stein.

Aldrei nokkurt móðurtár marmara í
sýnt oss getur sorgirnar, sem að búa' í því.

Því það er alt af eitthvað í insta hugans-
hring,
í mannsandsns myrkheim, í mannsins til-
finning,

sem aldrei kemur fram fyrir augans sjón-
arhring,
því það er andans eigin, in insta tilfinning.

Og þar á hún varða, sem vokva saknaðs-tár
og ylgeislar verma við vonar morguns-ár.

Góða hjartað syrgir og gæðaríka sál
hver sem metur meira manndygðir, en tál.

Inst í brjóstum tveggja, móður bæði' og
manns,
í móðurinnar tárum og andvörpunum hans,

er henni reistur varði, sem vokva sakn-
aðs-tár
og ylgeislar verma við vonarmorguns-ár.

Svo ei er þessi varði, sem verndar hennar
grof,
steinrunnin andvorp af tómleikans tof.

'98

## Framtíðar-von.

Það er ekkert sérstaklegt sældarhags-stand,
þá syrtir að æfinnar logi,
að skjökta frá blómgrund á brunahrauns
sand
með bilaða horgrind í togi,

sem tannlaus er orðin og hnoti við hætt,
með hrygglengju meidda af klyfjum,
því nú er hún, greyskinnið, brömluð og
bætt
með bjórþynku strengda að rifjum.

En bezt er samt áfram að halda, ég hygg,
og hræðast ei torfæru-gjótur;
en vel getur skeð, að hún veltist um hrygg,
ef vindst henni gigtveikur fótur.

'98

---

## Hrafna-þing.

Hvað ætli sé um fyrir nöfnum?
Hvílíkt ógrynni' af krunkandi hröfnum!

Þeir vita' af maðki í mosaþúfum
og masknir garga því svo drjúgum.

Að hafa' að éta, og hvernig þá,
er hugsun, sem krummana stríðir á.

En þar verða' ei margra máltíðir jafnar,
ef maðkarnir verða þar færri en hrafnar.

En suma vill lánið og lukkan sveipa,
og listin er fólgin í því að gleypa.

Að gleypa, já, gleypa — gleypa það mesta —
gleypa sem allra stærsta' og flesta

maðka, eins fljótt og færið næst,
er fengsælum hröfnum lukkan stærst.

Og mosaþúfurnar
og maðkahrúgurnar
fylla þá kæti,
svo kvikum fæti
þeir hoppa' yfir mosann
og hirða' ekki um rosann,
þó fjaðrirnar svigni
og fiðrið digni.

„Krunk! krunk! Vér hrafnar í hæstum
sessum
nú höfum ráð á möðkum þessum."

Og hrafnagerið það hvirflast í kring.
Nú halda þeir nafnar sitt árlega þing.
'98

---

## Huggun.

Óðum skýrist sálar-sjón,
sjást nú merkin láða;
biblíuna' og brúar-Jón
bezt er að láta ráða.

Nú skal okkar ekkert flón
eitra verkin dáða,
ekki gera trúnni tjón,
traðka' ei fræið sáða.

Látum alt vort líknar-traust
lífsblæ hafa nógan —
Vetur, sumar, vor og haust
vellum alt af spóann.

Sendum okkar andans raust
austnorður um flóann.
Yrkjum, vöktum endalaust
akur lífsins frjóan.

Stöndum allir eins og bjarg
í okkar heilla-málum;
það skal verða fjandlegt farg
fortöpuðum sálum.

Aldrei hepnast versta varg
veiði' í næstu álum
meðan leifir sagl og sarg
svo litlu á skálum.

'96

## Kiðguð í landafræði.

Hún vissi um Ísland allmikið, sagði' ún,
en áherzlumerkið á Heklufræði lagði' 'ún.
Hún hafði' um Geysi lesið, því hún var
skólagengin
og *Hall Cain's Bondman* skildi betur enginn.

En þegar hún vissi, að var ég frá því landi,
sem var hún mig að fræða' um, svo þýð
og aðlaðandi,
þá spurði hún dekursleg, dragmælt og sein:
„*Did you come all the way by a railway
train?*"
'98

---

## Hildigunnur.

Reiðgnýr barst að ranni
og riðið var í hlað.
Og Flosa vel er fagnað,
en fár varð hann við það.
Hann sá, hvað Hildigunni
úr hugans djúpi rann,
því hefndar-hvöt með hugraun
í hennar augum brann.

Á aðra hönd var ekkjan,
sem aðal-harminn bar,
og víg ins göfga, góða
og gæfa Höskuldar,
á hina brögð og hreysti,
svo hætt var lífi manns,
því vitið hans Njáls það var þar
og vopnin sona hans.

Hann sættir sá það bezta
og sæmra' en morð fyrir morð.
Til hófs hann hvatti' að stilla
og hógvær mælti orð.
En Hildigunni hatur
og heift í einu greip;
en Flosi þétt sat fyrir
sem fastast við sinn keip.

En þegar undan eggjun
og æsing neitt ei lét,
í stofu gekk hún stúrin
og stundi við og grét,
því þungt var henni. Hárið
strauk hún sér augum frá.
Þá sást, hve andans orka
í andlitsdráttum lá.

Hún brýndi egg í áform
og odd á skapið sló,
svo orðin bitu betur
og blóðug vopnin nóg;
síns halla hlutar bótum
hver hugsun eftir beið;
en ekkja' og einstæðingur
oft eiga sömu leið.

„Víst mundi hefnt þín hafa
Höskuldur bóndi minn;
og minna' í illsök átti
Arnór við föður þinn;
þó vógu' 'ann þínir bræður
á þingi', er gegndi verst.
En nú í sætt og silfri
þér sæmd vor hugsast mest."

Hvítanessgoðinn hníginn,
Höskuldar sár og blóð,
sú heljar hroða-sjónin
fyr' hugskotsaugum stóð —
það níðings voða-verkið!
Við vinar fallins skarð
hún hafði þor að hefna
þess, hefnt er síðar varð.

Fast lagðist harka' og hatur
í hefndarþrungið skap,
er hrækti' á sátt og silfur
sem svik og smán og tap.
Og blóð fyrir blóð, kvað heiftin,
á burt með sáttamál,
það kararfauska kveinið
frá kraftatæmdri sál!

„Frækleikans firð og bleyði
ég frá þér við ei bjóst.“
Af kaldahlátri hófust
á Hildigunni brjóst.
Svo lauk upp klæða kistu
og kom með skikkju fljóð.
Í hana' á hrygðar-stundu
hún Höskulds þerði blóð.

Með þessu hugfest hafði' 'ún
að hefndum mætti ná;
og ef það ekki dygði,
ei annað ráð var þá.
Og henni' á herðar Flosa
svo Hildigunnur brá.
Hún slettótt storknu blóði
og stungin var að sjá.

„Fyr' alla Krists þíns krafta
og kjark og manndóm þinn,
ég sjálf þig særi' að hefna
hvers sárs, er bóndi minn
var særður. Svo til drottins
í sorg ég máli skýt.
ef nú mér viltu neita,
þig níðing kalla' eg hlýt.“

„Köld eru kvenna-ráðin,“
hann kvað og litum brá;
þó fastlyndið hans Flosa
ei færa hótið má.
En Héðins hæðni' á þingi,
svo hvöss sem eggjar stáls,
varð eldsins upphafs-neistinn,
og endir brenna Njáls.

'99

## Laufin.

Öll lauf þessa fjall-lausa, frostkalda lands
nú fölna í haustvinda kælum.
Í kvöld þau inn síðasta dansa sinn dans,
því dauðinn er þeim nú á hælum.

'98

## Dauðinn.

Stöðvun upp úr rangli' og ruggi,
Regla föst með sérstakt lag,
öllum þreyttum aftanskuggi
eftir heitan þrældómsdag.

'99

## Október.

Að glaumauðgum sumarsins sölum
og söngríkum smáskóga lundum,
og glensinu' og góðvina fundum,
þú svífur frá svalviðris dölum.
Í loftinu þínu' eg mig lauga
og logann frá sólinni' í blóðinu slekk;
í skjólinu trjástofna-tauga
sumarsins skilnaðar-skál svo
glaður og ókvíðinn, barmfylta botns til ég
drekk.

Og Október, fulltrúinn frosta,
þinn feldur er hreggský ja-þilja,
sem haustið þér keypti, því kosta
þú kvaðst ei til búnings þíns vilja.
Nú faðmar þig nötrandi Njóla
og nóttin er fangsvöl og rennandi blaut;
nú legst yfir hlíðar og hóla
hráslaga-kuldinn og myrkurs
stormkuflinn nærskorni, mold jafnt og mar
arins skaut.

Frá regninu' og lauffalli líður
laðandi, friðandi niður.

Og helsingja kvakandi kliður,
þó dimt sé, ei boðanna bíður.
Og haustið mér hönd sína réttir —
í hönd mína leggur það næðandi kul,
og úrig í andlit mér skvettir
ísköldu dropunum nóttin,
svalbrjósta, koldimma haustnóttin, draum-
rík og dul.

Sko, laufið til dauða síns dansar,
í drunganum náttkyljan syngur;
og regnvotir rósanna kransar,
sem snert hafa frostnætur-fingur,
þeir visnir á leiðinni liggja
þess lífs, sem að gladdi þig, víðlenda storð,
það sýnist þá hálfpartinn hryggja
að hverfleikinn einsamall varir
sterkur sem dauðinn og sorgin og almætt-
is-orð

Og laufið, sem deyjandi dansar,
og drunginn, þars náttkyljan syngur,
og regnvotir rósanna kransar,
sem snert hafa frostnætur-fingur,
eru tónar frá titrandi strengjum,
sem tíminn og eilífðin stemmir og slær.

En svalinn fra hugsnjóa-hengjum
í haustnætur golunni leitar
að óm þeim, sem átt hafði sumarsins
blíðasti blær.
'98

## Asna-stryk.

Það varð eins og áður alt hjá honum —
asna-stryk.
Örfhentur sáði' 'ann ótal vonum,
uppskar svik.
'99

## Snær.

Þinn sárasti óvin er sunnanblær,
við sólskinið gremst þér á vorin.
Það sem að eftir er af þér, Snær,
eiga nú pollar og forin.

Og nýja framrás þinn nafni fann,
því nú er að byrja hún Harpa.
Hann seitlar nú útyfir akurinn þann,
sem umkringir sorphaug í varpa.
'99

# Efnisyfirlit.

